# ÆFISAGA

# GÍSLA ÞÓRARINSSONAR,

fyrrum prófasts

í

**Rangárþingi,**

gefin út á kostnað barna hans

frú **Sigríðar Einarsen**

og

**Sigurðar** prests **Thorarensen.**



**Kaupmannahöfn.**

Prentað hjá prentara *S. L. Möller.*

**1845.**

Jeg hef annast prentun á bæklingi þessum, eptir tilmælum föður míns og föðursystur, og verð eg því, með fám orðum, að giöra grein fyrir, hvaða hlut eg á að honum. Æfisögubrotið er í fyrstunni samið af Sveini heitnum Pálssyni, og lítur svo út, sem það sje skrifað fám dögum eptir það afi minn andaðist; hafði Sveinn gefið föður minum handritið til eignar og umráða. Þetta handrit hef jeg nú haft fyrir mjer, og má kalla það sje með ummerkjum Sveins heitins, að efninu til; jeg hef hvergi bætt í það einu orði, en ekki sleppt úr öðru enn því, er mjer þótti ekki eiga við, annað hvort af því, að langt var frá liðið síðan maðurinn dó, eða mjer fannst of smásmuglega til tínt.

Orðfærinu hef jeg breytt gjörsamlega; tek

jeg það fram fyrir þá sök, að jeg vil ekki láta saka Svein um lýti þau, er á eru.

Það er ekki að búast við, að slíkar æfisögur, sem þessi, geti verið almenningi til nokkurra nota; því þær eru ekki prentaðar í því skyni; þær eru ætlaðar ættingjum hins látna, og það er eðliligt, að þeir vilji þekkja forfeður sina og ætterni.

Þess ber og að geta að síðustu, að jeg hef breytt stafsetningu á æfiminningunni eptir ömmu mína, og á grafminningunum báðum; en sje nokkru orði brjálað, þá er það orðið mjer óviljandi.

G. Thorarensen.

**Gísli þórarinsson** var fæddur á Grund í Eyjafirði 18. dag nóvembermánaðar 1758. Faðir hans var þórarinn, sonur Jóns í Grenivík; voru þeir feðgar báðir sýslumenn í Vaðlasýslu; systir Jóns í Grenivík var Halldóra, móðir Sveins lögmanns Sölvasonar. Faðir Jóns sýslumanns var Jón, sonur Jóns á Hraunum, Fljóta umboðsmanns, Sveinssonar prests að Barði í Fljótum, Jónssonar bónda á Siglunesi. Kona Sveins prests var Björg Ólafsdóttir, prests að Breiðabólstað í Vesturhópi, Erlendssonar prests, Pálssonar sýslumanns, Grímssonar sýslumanns, Pálssonar, Brandssonar lögmanns, Jónssonar bróður Finnboga lögmanns. Móðir Bjargar Ólafsdóttur var Sigríður þorvarðsdóttir. Móðir Ólafs prests var Björg Kráksdóttir. Móðir Jóns sýslumanns í Grenivík var Helga Guttormsdóttir, Jónssonar bónda á Hraunum í Fljótum. Móðir Helgu og kona Guttorms var Málfríður Illhugadóttir, ráðsmanns að Hólum, Jónssonar bónda, Illhugasonar á Einarsstöðum í Reykjadal. Faðir Jóns var Illhugi prestur Guðmundarson á Múla í Reykjadal, en móðir hans Málfríður Jónsdóttir prests, Finnbogasonar lögmanns. Móðir Málfríðar Illhugadóttur var Halldóra Skúladóttir, systir þorláks byskups á Hólum. Faðir Halldóru var Skúli bóndi Einarsson á Eiríksstöðum í Svartárdal; kona Skúla var Steinunn laundóttir Guðbrands Hóla-byskups. Faðir Guðbrands byskups var þorlákur prestur Hallgrímsson á Breiðabólstað í Vesturhópi, en móðir hans Helga, dóttir Jóns lögmanns, Sigmundarsonar prests, Steindórs-

sonar. Móðir Jóns var Solveig Þorleifsdóttir, Bjarnarsonar ríka, Þorleifssonar að Skarði á Skarðsströnd; móðurfaðir hans var Björn jórsalafari. Kona Bjarnar hins ríka var Ólöf, dóttir Lopts ríka Guttormssonar.

Móðir Þórarins sýslumanns var Guðrún, dóttir Þórarins klausturhaldara í Grenivík, Vigfússsonar, Friðrikssonar; er sá ættstuðull á Englandi, og þekkjum vjer hann ekki. Guðrún Vigfússdóttir lifði ein eptir systkina sinna úr Stórubólu, var hún kölluð Guðrún hin fagra, og þótti mikils háttar kona. Móðir Guðrúnar var Ingibjörg, dóttir Markúsar prests Geirssonar; Markús var fyrst prestur við Mývatn, en síðan aðstoðarprestur hjá tengdaföður sínum, sjera Jóni Magnússsyni í Laufási; sjera Markús var föðurafi Gísla byskups Magnússsonar á Hólum. Faðir sjera Markúsar í Laufási var sjera Geir, sonur Markúsar bónda að Fremstafelli í Kinn, Geirssonar prests Jónssonar. Sjera Geir var prestur við Mývatn, bjó hann fyrst á Skútustöðum, en fór síðan búferlum að Helgastöðum í Reykjadal. Kona Geirs prests var Steinunn, dóttir Jóns bónda í Skriðu, Þorsteinssonar prófasts í Múla, Illhugasonar; Illhugi var fyrst prestur í Múla, síðan var hann um hríð ráðsmaður á Hólum hjá Ólafi byskupi. Móðir Jóns bónda var fyrri kona sjera Þorsteins, Sigríður Jónsdóttir frá Espihóli, Einarssonar, Brynjúlfssonar og Solveigar, dóttur Gríms Pálssonar og Helgu dóttur Narfa Þorvaldssonar og Þuríðar, laundóttur Bjarnar ríka Þorleifssonar frá Skarði. Kona Jóns bónda í Skriðu og móðir Steinunnar, konu sjera Geirs, var Guðríður dóttir Ara Magnússsonar frá Grýtubakka í Höfðahverfi, Magnússsonar bónda Árnasonar, Pjeturssonar í Stóradal í Eyjafirði, voru þeir af ætt þeirra Möðruvellinga. Móðir Árna á Grýtubakka var Þuríður, laundóttir Sigurðar prests á Grenjaðarstað, Jónssonar hóla-byskups Arasonar og Helgu

Sigurðardóttur. Móðir Magnúsar bónda í Stóradal var þorbjörg, dóttir Eyólfs riddara Arnfinnssonar, þorsteinssonar lögmanns, og Snælaugar Guðnadóttur, Oddssonar lögmanns þórðarsonar. Móðir Arnfinns þorsteinssonar var Arnþrúður Magnússdóttir, Brandssonar frá Svalbarði; hún var systir Eiriks ríka á Möðruvöllum, móðurafa Lopts ríka Guttormssonar. Faðir Eiríks ríka var Magnús svalbarði Brandsson; eru frá honum komnar Svalbarðsættir, má rekja ætt hans til Guðmundar dýra á Bakka í Yxnadal, þorvaldssonar auðga; síðan til Guðmundar hins ríka Eyólfssonar á Möðruvöllum, og þaðan til Höfðaþórðar og Helga hins magra, landnámsmanna. Pjetur faðir Árna í Dal var Loptsson, Ormssonar, Loptssonar ríka, en móðir Árna var Sigríður dóttir þorsteins á Keldum, Helgasonar lögmanns Ólafssonar á Ökrum í Skagafirði, og Ragnheiðar Eiríksdóttur Loptssonar. Móðir Lopts Ormssonar, en amma Pjeturs, var Solveig þorleifsdóttir, systir Bjarnar hins ríka á Skarði. Móðir Orms var Kristín Oddsdóttir, fylgikona Lopts ríka Guttormssonar. Kona Árna Magnússsonar á Grýtubakka, er áður er getið, var Sigríður Árnadóttir, Gíslasonar frá Hlíðarenda, hún var langamma Steinunnar, konu sjera Geirs. Árni Gíslason hafði fyrst umboð yfir Húnavatnssýslu og þíngeyraklaustri, síðan var hann sýslumaður í Rangárþingi; faðir hans var Gísli Hákonarson frá Hafgrímsstöðum í Skagafirði, en móðir hans Ingibjörg, dóttir Gríms Pálssonar á Möðruvöllum. Foreldrar Gísla voru þau Hákon Hallsson, er bjó á Vindheimum, og Helga Narfadóttir; faðir Halls var Finnbogi lögmaður Jónsson, hann átti Málfríði Torfadóttur Arasonar riddara og hirðstjóra, og Kristínar þorsteinsdóttur, Ólafssonar lögmanns. Kona Árna á Hlíðarenda var Guðrún, dóttir Sæmundar Eiríkssonar í Ási í Holtum, Bjarnasonar Sumarliðasonar, en

móðir Sæmundar var Emerensjána (Emerentiana) þorleifsdóttir. Móðir Guðrúnar Sæmundardóttur á Hlíðarenda var Guðríður dóttir Vigfúsar Erlendssonar, hirðstjóra og lögmanns fyrir sunnan og austan, og Guðrúnar Pálsdóttur, systur þorleifs lögmanns í Skarði. Erlendur Erlendsson var sá, er úti lá í hríðinni með Sveini spaka, er síðan varð byskup; hann átti Guðríði, dóttur þorvarðar á Möðruvöllum, Loptssonar ríka, og Margrjetar dóttur Vigfúsar Ívarssonar Hólms, lends manns úr Noregi; voru þeir feðgar hirðstjórar á Íslandi.

Móðir **Gísla** heitins **þórarinssonar** var Sigríður Stefánsdóttir, systir Ólafs stiptamtmanns, faðir þeirra var Stefán prestur á Höskuldsstöðum, en móðir þeirra Ragnheiður. Faðir sjera Stefáns var Ólafur Guðmundarson prófastur á Hrafnagili, en móðir hans var Anna, dóttir skáldsins sjera Stefáns Olafssonar í Vallanesi, Einarssonar stiptprófasts í Heydölum, nafnkennds sálmaskálds. Sjera Stefán í Vallanesi átti Guðrúnu dóttur þorvalds á Auðbrekku, Ólafssonar klausturhaldara á Möðruvöllum, Jónssonar í Búðardal, Sigurðarsonar, Oddssonar, Geirmundarsonar, Ólafssonar tóna, þorleifssonar; voru þeir allir í Vestfirðingafjórðungi. Móðir Guðrúnar, konu sjera Stefáns í Vallanesi, var Halldóra yngri, dóttir Jóns á Holtastöðum, sýslumanns í Hegraness-þingi, Bjarnarsonar á Melstað stiptprófasts, Jónssonar byskups Arasonar. Móðir Jóns á Holtastöðum var Steinunn dóttir Jóns á Svalbarði, Magnússonar, þorkelssonar prests í Laufási, Guðbjartssonar prests, en móðir Magnúsar á Svalbarði var þórdís Sigurðardóttir. Magnús átti Kristínu dóttur Eyólfs riddara, Arnfinnssonar riddara, þorsteinssonar ljensmanns Eyólfssonar. Kona þorsteins lögmanns var Arnþrúður dóttir Magnúsar svalbarða, er áður er getið. Kona Eyólfs riddara var Snælaug Guðnadóttir frá Hóli í

Bolungarvík, Oddssonar lepps lögmanns þórðarsonar. Kona Jóns á Svalbarði, móðir Steinunnar á Melstað, var Ragnheiður Pjetursdóttir, Loptssonar að Staðarhóli, Ormssonar, Loptssonar riddara á Möðruvöllum; Ormur Loptsson átti Solveigu dóttur þorleifs í Vatnsfirði, og Kristínar dóttur Bjarnar riddara jórsalafara, Einarssonar riddara, Eiríkssonar riddara Sveinbjarnarsonar; má rekja ættir þeirra Vatnsfirðinga til landnámsmanna. Móðir Ragnheiðar á Svalbarði var Sigríður dóttir þorsteins á Reini, Helgasonar lögmanns Eyólfssonar. Móðir Halldóru á Auðbrekku var Guðrún Árnadóttir, frá Hlíðarenda, Gíslasonar Hákonarsonar, Hallssonar, Sveinssonar, Jónssonar langs í Axarfirði, er Langsætt er frá komin. Kona Gísla Hákonarsonar var Ingibjörg, dóttir Gríms á Möðruvöllum Pálssonar, Brandssonar lögmanns, Jónssonar stiptprófasts á Grenjaðarstað Pálssonar, og þórunnar, dóttur Finnboga hins gamla í Ási í Kelduhverfi, Jónssonar langs. Helga, kona Gríms á Möðruvöllum, var dóttir Narfa þorvaldssonar og þuríðar, dóttur Bjarnar hins ríka, í Vatnsfirði þorleifssonar. Ætt Guðrúnar, konu Árna Gíslasonar á Hlíðarenda, er áður rakin til Lopts hins ríka; Loptur átti Margrjetu dóttur Vigfúsar Hólms hirðstjóra. Loptur ríki var riddari að nafnbót, faðir hans var Guttormur Örnúlfsson á Staðarfelli, en Sofía móðir, dóttir Eiríks ríka, Magnússsonar svalbarða. Móðir Sofíu var Ingiríður Loptsdóttir, þórðarsonar, og Málfríðar Árnadóttur úr Askey.

Móðir Sigríðar Stefánsdóttur var Ragnheiður Magnússdóttir frá Espihóli, Bjarnarsonar á Espihóli, sýslumanns í Vaðlaþingi, Pálssonar klausturhaldara á þingeyrum og sýslumanns í Húnavatnsþingi, Guðbrandssonar byskups á Hólum, þorlákssonar, Hallgrímssonar, Sveinbjarnarsonar stiptprófasts og prests að Múla þórðarsonar, sem fyr er getið. Sveinbjörn prestur var sonur þórdísar

Finnbogadóttur hins gamla á Ási í Kelduhverfi, Jónssonar langs. Kona Guðbrands byskups var Halldóra dóttir Árna Gíslasonar á Hlíðarenda, en kona Páls sýslumanns Guðbrandssonar var Sigríður Bjarnardóttir sýslumanns Benidiktssonar ríka, Halldórssonar. Kona Bjarnar Benidiktssonar var Elín Pálsdóttir frá Staðarhóli, Jónssonar, Magnússsonar frá Svalbarði. Móðir Elínar var Helga Aradóttir lögmanns, Jónssonar byskups Arasonar. Kona Ara lögmanns var Halldóra þorleifsdóttir, Grímssonar á Möðruvöllum. Björn sýslumaður Pálsson á Espihóli átti Ragnheiði Magnússdóttir frá Reykhólum, Arasonar sýslumanns frá Ögri, Magnússsonar sýslumanns í Bæ á Rauðasandi, Jónssonar á Svalbarði Magnússsonar. Kona Magnúsar sýslumanns var Ragnheiður dóttir Eggerts lögmanns og riddara, Hannesssonar riddara og hirðstjóra, Eggertssonar riddara og lögmanns í Víkinni í Noregi. Kona Hannesar riddara var Guðrún Bjarnardóttir frá Ögri, Guðnasonar, Jónssonar, Ásgeirssonar. Móðir Bjarnar í Ögri var þóra, dóttir Bjarnar hins ríka þorleifssonar; en kona Bjarnar var Ragnhildur, dóttir Bjarna á Ketilsstöðum og Ragnheiðar þorvarðsdóttur frá Möðruvöllum, Loptssonar hins ríka og Margrjetar Vigfússdóttur Hólms. Kona Ara sýslumanns í Ögri var Kristín dóttir Guðbrands byskups, en kona Magnúsar Arasonar á Reykhólum var þórunn hin ríka, dóttir Jóns sýslumanns í þingeyjarþingi, Vigfússsonar sýslumanns, þorsteinssonar í Hafrafellstungu, Finnbogasonar lögmanns Jónssonar. Kona þorsteins Finnbogasonar var Sesselja dóttir Torfa hins ríka Jónssonar, (voru þeir feðgar hvor fram af öðrum sýslumenn í Árnessþíngi), Ólafssonar, Loptssonar hins ríka. Kona Ólafs Loptssonar var Guðrún Rafnsdóttir lögmanns Guðmundssonar. Kona Jóns Ólafssonar sýslumanns var Ingibjörg, dóttir Eiríks í Ási er áður er getið.

Kona Torfa hins ríka var Helga Guðnadóttir frá Ögri og þóru, dóttur Bjarnar hins ríka þorleifssonar í Vatnsfirði. Kona Vigfúsar sýslumanns þorsteinssonar var Anna Eyólfsdóttir í Dal, Einarssonar lögmanns Eyólfssonar; móðir Önnu var Helga, dóttir Jóns byskups Arasonar. Kona Einars lögmanns var Hólmfríður Erlendsdóttir, Erlendssonar, sem fyr er getið; móðir hennar var Guðríður þorvarðsdóttir, Loptssonar hins ríka. Móðir þórunnar ríku, og kona Jóns sýslumanns var Ingibjörg Bjarnardóttir prests, Gíslasonar stiptprófasts og prests að Saurbæ í Eyjafirði, bróður Árna Gíslasonar á Hlíðarenda. Móðir Ingibjargar var Málfríður Torfadóttir prests í Saurbæ, Jónssonar priórs á Möðruvöllum, Finnbogasonar lögmanns. Kona Magnúsar Bjarnarsonar á Espihóli var Sigríður dóttir Jóns byskups á Hólum, Vigfússsonar sýslumanns í Rangárþingi, Gíslasonar lögmanns, Hákonarsonar sýslumanns í Rangárþingi, Árnasonar, Gíslasonar á Hlíðarenda. Kona Jóns byskups Vigfússsonar var Guðríður þórðardóttir, prests í Hítardal, Jónssonar prófasts, Guðmundssonar á Hvoli í Saurbæ, Jónssonar sýslumanns þórðarsonar. Móðir Jóns prests í Hítardal var Elín Pálsdóttir, systir Ögmundar Skálholts byskups.

---

## Gísli þórarinsson

ólst upp með foreldrum sínum, þar til hann var tíu vetra, er faðir hans andaðist; var þá systkinum hans komið í fóstur, sínu hja hverjum, en hann fór með móður sinni að Möðruvöllum í Hörgárdal; ári síðar giptist móðir hans, í annað sinn, Jóni sýslumanni Jakobssyni, og fór hann þá með henni að Espihóli. Jón Jakobsson kom honum fyrst til kennslu til Jóns prests Jónssonar hins eldra; en síðan fór hann að Hólum í Hjaltadal

til frænda síns, Sigurðar konrektors Stefánssonar, er síðar varð byskup, lærði hann þar barnalærdóm; síðan fór hann til Jóns eldra í annað sinn og hóf þar latínulærdóm. Um haustið 1775 fór Gísli í Hólaskóla og var útskrifaður þaðan að fjórum vetrum liðnum. Eptir skólaveru sína var hann heima einn vetur með stjúpföður sínum og móður; en fór síðan utan, að tilstyrk þeirra, með Eyjafjarðar skipi, um haustið 1780. þegar er hann hafði lokið tveimur hinum fyrstu frumprófum við háskólann í Kaupmannahöfn, gaf hann sig við guðfræði, voru þá þeir byskup Balle, Friðrik Jansen og Claus Horneman háskólakennarar. Auk guðfræðinnar heyrði hann og fyrirlestra Saxtorphs um lækningar, þótti það þá mæla fram með prestaefnum á Íslandi. Um vorið 1784 lauk hann sjer af við háskólann, og fekk „haud illaudabilis" til vitnisburðar, hafði hann varið hinni stökustu iðni við lærdómsiðkanir sínar, sýna það vitnisburðir hans frá kennurum hans við háskólann og Hviid regensprófasti; vitnisburður Hviids er þannig:

P. M.

Efter Forlangende kan jeg herved i Sandhed bevidne, at Mr. **Gislavus Thorarensen** alumnus paa det Kongel. Communitet og Regenzen har bestandig i de to Aar jeg har været Provst ved disse 2 Kongel. Stiftelser, fört et meget roesværdigt, stille og dydig Levnet, saa at jeg i alle Maader med hans berömmelige Forhold særdeles har været fornöjet, hvorudover jeg og paa det allerbedste ærbödigst vil anbefale ham til alle.

Kjöbenhavn, d. 15de Octbr. 1783.

*Andreas Christian Hviid*
Prof. Præposit. Communit. et Colleg.
Reg. necnon Vicarius
S. V. Episcopi.

Þenna vetur voru þeir samtíða í Kaupmannahöfn Arni byskup Þórarinsson, er komið hafði þangað haustinu áður, til að sækja byskups-vígslu, og Gísli. Um vorið losnaði Oddi á Rangárvöllum; var hann veittur Gísla með konungsbrjefi og fór hann alfarinn til Íslands, samsumars, á Eyrarbakkaskipi. Í ofanverðum ágústmánuði komu þeir við Meðalland, brutu skipið í spón og týndu öllu er á var, en komust sjálfir með naumindum til lands á kaðli, og minntist hann þess jafnan sem hinnar mestu lífshættu, er hann hefði í verið. Um þetta leiti voru harðindi mikil á Íslandi og illt til greiða fyrir ferðamenn, en hann allslaus; komst hann, með hinum mestu erviðismunum, suður yfir heiðar til Vigfúsar sýslumanns, bróður síns, er þá bjó á Lágafelli í Mosfellssveit. Þar dvaldi hann sex vikur og fekk helstu nauðsynjar sínar hjá bróður sínum; urðu nú og fleiri frændur hans á suðurlandi til að hjálpa honum; þó sagði hann, að engum hefði eins vel til sín farist og frú Þórunni Ólafsdóttur, frændkonu hans; hún var fyrri kona Hannesar byskups Finnssonar. Um mikkaelsmessu leiti sótti Gísli vígslu í Skálholt, til Hannesar byskups, tók þegar við embætti sínu og bjó um hríð ókvæntur að Odda. Um vorið 1786, dag 26. aprílmánaðar, átti hann madömu Jórunni Sigurðardóttur, ekkju Einars heitins Brynjólfssonar á Barkastöðum; með henni átti hann tvö börn, Sigríði, er síðar giptist Ísleifi Einarssyni, dómara í landsyfirrjettinum og Sigurð, sem nú er prestur í Hraungerði í Árnesssýslu. Árið 1793 varð hann hjeraðsprófastur í Rangárþingi, eptir Pál prófast Sigurðarson í Holti undir Eyjafjöllum. Þess er áður getið, að Gísli hafi þegar lagt stund á læknisfræði, meðan hann var í Kaupmannahöfn; hjelt hann því og áfram alla þá stund er hann lifði og þótti heppinn í lækningum; var honum og ekkert ljúfara,

enn geta mýkt mein sjúkra manna, bæði með ráðleggingum og læknisdóma gjöfum. Embætti sitt rækti hann með hinni mestu alúð og samvitskusemi, og svo segja kunnugir menn, að hann byrjaði aldrei að semja neina prjedikun svo, að hann hefði ekki tárfellt.

Í umgengni hversdagslega var hann spakur og jafnlyndur, lítillátur, fáorður og tregur til reiði, langminnugur góðs og ills, eptirlátur við vini sina og hinn vinfastasti, barngóður og hafði skemmtun af að tala við skynsama unglinga, vekja íhugun þeirra og hvetja þá til framkvæmda í orði og verki, gestrisinn við komumenn, og ósínkur í öllum útlátum, reglufastur og ófús á breytingar, nema hann vissi víst, að til betra væri breytt; raddmaður var hann góður og fórust öll prestsverk vel úr hendi.

Að líkams sköpun var hann með hærri mönnum, rjettvaxinn, fallegur í vaxtarlagi og fríður sýnum, áður hann veiktist. Hann var dökkur á hár, og nokkuð bleikleitur á hörund þegar á unga aldri; má vera, að það hafi verið undirbúningur til veikinda þeirra, er að síðustu drógu honum til dauða. Heilsufar hans var jafnan heldur óhraust og hafði snemma brytt á, að hann væri miltisveikur; megnaði það þó ekki að draga úr holdríki því er á hann sótti; fór holdríki þetta þeim mun meir í vöxt, sem hann eltist meir; litarháttur hans fór og æ vesnandi; var það auðsjeð, að í honum bjó guluveiki og vatnssýki. Um vorið 1798 lagðist hann og mjög hætt í guluveiki, varð hann þó í þetta skipti að mestu albata aptur; en upp frá þeim tíma varð honum opt mjög kranksamt, sótti þá á hann magaveiki, tungubólga og eitlabólga í hálsinum. Veturinn 1806—1807 gripu veikindin hann að fullu og öllu; sótti þá að honum mæði og brjóstþyngsli; var hann þó optast þjáningarlítill, nema

þegar köldufiog gripu hann; en þau urðu optast nær linuð með blóðtökum; gjörði hann það stundum sjálfur, en stundum læknirinn. Þegar á leið veturinn, þyngdi honum svo, að venju fremur fjellu úr messur fyrir honum; sótti hann þá óvenjulegur svefnþungi, eins þó hann væri á fótum; fylgdu því og stundum hægir höfuðórar, bláleitur andlitslitur og bjúgur í fótum. Um vorið kom tengdasonur hans og dóttir í orlofsferð austur að Odda; hafði þetta svo af honum, að hann messaði næsta sunnudag, annan eptir þrenningar-sunnudag, og staðfesti nokkur börn, gjörði hann það þó að mestu sitjandi; en ekki bar þó á, að hann tæki mjög nærri sjer; þetta varð síðasta skipti, að hann messaði. Fáum dögum síðar hafði hann dagsett skipti eptir Jón prest Jónsson á Fellsmúla. Hjeraðslæknir Sveinn Pálsson hafði varað hann við kyrsetum, þegar hann gæti annað veikinda vegna, en hvatt hann til útreiða þegar hann væri þeirra fær. Daginn áður enn skiptin áttu að verða hittust þeir Sveinn Pálsson; ráðguðust þeir þá um ferðina, og hjelt Sveinn honum mundi óhætt að fara með traustum fylgdarmanni, ef hann byggi sig vel út og treysti sjer til þess sjálfur. Næsta dag, 8. júnímánaðar, lagði hann að heiman og upp að Gunnarsholti, „vísítjeraði" kirkjuna, og reið síðan upp yfir Rangá um kvöldið, en varð stígvjelafullur í ánni, og hafði náttstað á Stóruvöllum. Þann 9. og 10. lauk hann af skiptunum, með tveimur öðrum prestum, Runólfi Jónssyni og Einari Þorleifssyni, er hann hafði kallað til með sjer. Um leið „vísítjeraði" hann kirkjuna í Skarði, og gisti hann þar nóttina á milli. 11. dag júnímánaðar „vísítjeraði" hann kirkjuna á Stóruvöllum með veikum mætti; var það hið síðasta embættisstarf er hann gegndi, lagðist hann þá um kvöldið á Stóruvöllum, dauðvona að kalla. Morguninn eptir var hann nokkuð hressari; reið þá Stefán

prestur á Stóruvöllum, að tilmælum hans, suður að Odda, til að láta konu hans vita, hvar komið væri. Hún brá skjótt við og sendi þegar mann til Sveins Pálssonar, en reið sjálf með Sigurði syni sínum upp að Stóruvöllum og kom þar skömmu fyrir sólsetur. Sveinn Pálsson kom að Stóruvöllum daginn eptir, laust eptir sólaruppkomu; lá prófasturinn þá í kirkjunni, sæmilega málhress og með allri rænu, en kvartaði þó um missýningar við konu sína. Daginn áður, enn kona hans kom, var hann svo órór og leiddist svo mjög, að við sjálft lá, að hann legði á stað með meðreiðarmanni sínum; en með því veður var kalt og ryk á landnorðan, fjellst hann á, að það mundi vera illfært. Það var auðráðið, að ervitt mundi verða að þjóna honum þar til lengdar, sóttveikum; var það því ráðið af, eins og hann vildi sjálfur, að flytja hann fram að Odda. Þegar búið var að hjálpa honum í fötin og búa hann út, eins og varð, gekk hann að altarinu og baðst rækilega fyrir; síðan ljet hann leiða hest sinn að kirkjudyrunum, kvaddi prestskonuna og þakkaði henni mikillega nákvæmni hennar við sig, og stje síðan á bak, að mestu hjálparlaust. Hann fór á stað frá Stóruvöllum um hádegisbil; voru þeir með honum, er áður er getið, og þar að auki Stefán prestur á Stóruvöllum; reið hann nú hraðan klyfjagang fram yfir Rangá, suður fyrir Víkingslæk, stundi þungan endrum og sinnum, en kvartaði ekki um neitt. Á hrauninu fyrir norðan Gunnarsholt ljet hann styðja sig af baki og hvíldi sig um hríð; allt þangað til gegndi hann öllu, sem á hann var yrt, og sagðist ekki vera lakari. Þegar komið var fram yfir Gunnarsholtslæk, voru höfð hestaskipti hjá konunni hans; sagðist hann þá ekki treysta sjer til að staldra við á meðan og hjelt áfram með Stefáni presti og Árna bónda á Selalæk, er óbeðinn hafði riðið upp að Stóruvöllum, þegar hann

heyrði, hvernig á stóð; tók hann nú að hraða ferðinni, eins og hann fyndi, hvað sjer liði; úr Hróarsholtslæk ljet hann taka sjer vatn á pela, og saup hann á því þrisvar sinnum á leiðinni. Hann bað fylgdarmenn sína að sneiða hjá öllum bæjum og hvatti jafnan sporið þegar hægt var farið. þegar þeir komu að Stórahól, fyrir norðan Kumla, tók hann að stynja þyngra, enn áður; Árni á Selalæk spurði hann þá, hvört honum væri farið að þyngja, en hann sagði, „að nú væri það heldur farið að koma í bakið"; riðu þeir nú heim traðirnar í Odda og spurði Árni hann, hvort hann vildi ekki ríða upp að bæjardyrunum, svo hann ætti sem skemmst í rúmið; svaraði hann engu uppá það, svo heyrt yrði, en reið þangað þegjandi og heilsaði heimamönnum sínum, er stóðu á hlaðinu; var það svo óskýrt, að það skildist varla; stje hann síðan af baki við dyrnar og bað fylgdarmenn sína að standa í fangi sjer, svo hann fjelli ekki áfram; gekk sjera Stefán til við annan mann; en jafnsnart hneig hann niður á knjen, og heyrðist, að hann sagði um leið: „ekki að tarna"; og í sama vetfangi leið hann aptur á bak í höndum þeirra andvarpalaust, með luktum augum og munni, og var örendur. þetta var liðugri einni stundu eptir nón, 13. dag júnímánaðar 1807; hafði hann þá lifað í 48 ár, 6 mánuði, 3 vikur og 3 daga, verið prestur í 23 ár, prófastur í 14, og kvæntur maður í 22 ár.

Vigfús, bróðir hans, sýslumaður á Hlíðarenda, setti honum þessa grafminningu:

Hjer hvílir<br>
örendur líkami<br>
prófasts í Rangárþingi<br>
sjera **Gísla þórarinssonar;**<br>
hann fæddist 18. dag nóv. 1758,<br>
varð prestur að Odda 1784,

giptist Jórunni Sigurðardóttur 1786,
dó 13. júní 1807.
Hann var
viðkvæmur samvitskumaður,
stöðuglyndur, fáskiptinn,
fámálugur,
tryggur, nákvæmur, raungóður;
sakna því vinir, veikir, fátækir,
blíðs fulltrúa,
heppins læknis,
viljugs nauðhjálpara.

# Æfiminning

prófastsekkju

## Jórunnar Sigurðardóttur,

flutt við hennar jarðarför

af

## Árna Helgasyni

Dannebrogs-riddara, stiptprófasti, prófasti í Kjalarnessþingi og sóknarpresti til Garða og Bessastaða safnaða.

---

Svo er þá þessi höfðingskona inngengin til Guðs hvíldar eptir langa æfi, framkvæmdarsamt og, meðan kraptar leyfðu, uppbyggilegt líf. Hún hefur náð þeirri áratölu, sem allareiðu á Moysis dögum var talin ein sú æðsta. Hún hefur gjört margt og liðið margt, meðan hennar vegferðardagar yfirstóðu; því kallaði Drottinn hana og burt frá þessu reynslustandi, hann, sem veit nær tíminn er til að segja: komið aptur þjer mannanna börn.

Vjer samfögnum hennar lausn frá lífsins þungu byrði — er nú seinustu ár æfinnar, eptir öllum líkindum, lagðist nokkuð þungt á hennar öldruðu bein — og fylgjum henni til síns hvíldarstaðar með samblönduðum fagnaðar og trega tilfinningum: fagnaðar, því hún hefur fengið gleðileg umskipti, hvíld fyrir erfiði, fögnuð fyrir þjáning, og eilífa umbun fyrir það sem hún gjörði vel, leið kristilega; og með tregatilfinningum: þegar vjer hugsum til þess, hvílík kona hún var, meðan lífið stóð í blóma, hvílíkt atgjörvi sálar og líkama henni var veitt, hverjum kostum hún var búin, og jafnframt hversu elli og veikindi geta svipt manninn hans ágæti og lagt hans blóma í jarðarinnar dupt.

Já, vjer tregum ei einasta af þessu, heldur og af því, að ekki eru þær margar, sem fyllt geta hennar skarð, eins og hún var í lífsins blóma; því strax í foreldra húsum var hún meðal sinna mörgu systkina fyrir fjör og röskleika framúrskarandi, alltíð blíð, alltíð glöð, alltíð góð. Á unga aldri bauðst henni það ráð, sem henni geðjaðist; hún eignaðist þann mann, sem hún elskaði rjett innilega, sem hún annaðist veikan, með allri þeirri alúð, sem elskan kennir, og tregaði með allri þeirri einlægni, sem tápmiklum sálum er gefin. Eptir þrettán ára sambúð við þenna sinn elskaða mann og frænda, varð hún ekkja, bjó svo fá ár í ekkjustandi — og bjó vel, því engan dugnað vantaði sem til búsældar útheimtist.

Í annað sinn giptist hún presti til Odda og prófasti í Rangárþingi G. Thorarensen og átti með honum eina dóttur og einn son. Saman við þenna sinn annan mann var hún tuttugu ára tíma og bjó saman við hann með þeirri elskusemi og blíðu og glaðsemi, er fjör hennar og töluverðu lífskraptar gjörðu henni svo eiginlegt. Síðan hún missti þenna sinn annan mann eru nú liðin hjerumbil tuttugu og sex ár, og meiri part af þessari áratölu hjelt hún bú, en þótt elli og bilun líkamans, er henni hafði, áður enn hún varð ekkja, til viljað, gjörði henni það næsta ervitt. Það síðasta ár var hún í húsum sinnar elskuðu dóttur og tengdasonar, úr hverju heiðurshúsi hún nú fyrir fáum dögum er inngengin til Guðs hvíldar. Þessi er hennar vegferð. Allan kvennlegan dugnað hafði hún til að bera á hárri tröppu: hún var mikið umsýslusöm og fljóthuga, ráðdeildin var að því skapi; hún hafði og mikla skemmtun af framkvæmdum, og hugur hennar stóð mjög til umsvifa; allt vottaði fjöruga sál og krapt mikinn; útlitið var hýrt og glaðlegt og blítt. Mótgang allan, sem nokkuð var í varið, bar hún sem hetja; allt

það, sem hún kannaðist við væri Guðs álag, því tók hún með þögn og þolgæði, því hjartað var guðrækilegt; tryggð hennar var óslítanleg, þar um munu margir geta með mjer vitni borið. Góðsemi hennar við nauðstadda hefur verið hrósað maklega: var það hvorttveggja, að Guð hafði gefið henni efni til þess, enda vantaði ei heldur hjarta. Ástúðlegustu móður og ömmu getum vjer sagt með sanni að hún hafi sýnt sig. Hennar blíða lund hindraði hana samt ekki frá því að beita nauðsynlegri röggsemi og umvöndun við þá ungu, einkum eigin börn. Það glaðlyndi, sem náttúran hafði gætt hana með, yfirgaf hana ekki í hennar háu elli það varðveittist allt fram í andlátið. Eg sá ekki betur, enn að sú aldraða væri eins og blítt barn í öllu viðmóti við sína elskuðu dóttur, hverja hún mun hafa elskað mest allra manna; en líka blíðu í atlotum gat hún sýnt, jafnvel á seinustu lífsstundum, þeim er henni var vel við.

Hefði þvílík kona verið hjeðan kölluð á sínum yngri árum, eptir að auðsjeð var, hvað mikið var í hana varið, hefði henni verið burtu kippt á miðbiki æfinnar, hvílíkur harmur mundi það hafa verið fyrir ektamann og afkvæmi! hvílík eptirsjón fyrir alla, sem vita að meta dugnað, sameinaðan ráðvendni! En drottinn ljet oss lengi hennar návistar njóta, og það svo, að eptir hennar kringumstæðum var ekki annað að sjá, enn hún gleddist við lífið og gæti notið lífsins; því ekki sást hún hrygg, ekki jafnvel fálát til lengdar. Innvortis bjó friður. Ásátt var hún með að yfirgefa lífið, nær sem vera skyldi. Heilbrigðinnar blessunar naut hun næstum alltíð. Guði gaf hún sig og sína. Lífið var líka gjört henni svo inndælt, sem mögulegt er að það geti orðið þeim aldraða, í húsum hennar barna.

En þau ár voru samt komin, sem almennt gildir um: þau geðjast oss ekki", og því fleiri þau verða,

því fleiri verða anmarkarnir, og engin von getur verið, þegar komið er yfir þau áttatíu árin, að lífsins þungi minnki. Engin ráð gefast önnur til að losast undan lífsins oki, enn að flytja úr líkamans tjaldbúð, sem dregur niður, þegar hún fyrnist, ogsvo þann fjörugasta anda. Drottinn kallar sín börn hjeðan á hentugum tíma (því drottinn gjörir allt hentuglega), þegar þau hafa af lokið sínu dagsverki, gjört og liðið það sem þeim var ætlað að líða, svo innganga þau til Guðs hvíldar, og hvild er það besta fyrir þá þreyttu og öldruðu. Vjer höfum því orsök til að gleðjast með þeirri, sem hefur fengið gleðileg umskipti, sem laus er orðin við líkama þessa dauða, og er inngengin til Guðs hvíldar, er flutt i samfjelag Guðs útvaldra í ljósinu, hvar hennar fjörugi, blíði, glaðværi, guðlegi andi nýtur þeirrar sælu, er augað sá ekki, og eyrað heyrði ekki og engum hefir til hugar komið, þeirrar sælu, sem Guð hefir fyrir búið þeim sem hann elska. Amen.

Lík

**Jórunnar Sigurðardóttur**

er hjer lagt.

Hún fæddist 22. maím. 1751,

andaðist 11. júlím. 1834.

Lifði fyrst 13 ár í hjúskap

með lögsagnara

**Einari Brynjúlfssyni,**

síðan 20 ár

með prófasti

**G. Thorarensen;**

ól honum tvö börn;

svo í ekkjustandi 26 ár.

---

Hennar forðum fríða líkama
lífgaði fjörug, blíð, trúföst,
góðsöm, guðrækin sál.
Því var hún talin ein sú
helsta kona á sinni tíð.
Því skal hennar æ að góðu getið.

Hennar minningar skyldugur
heiðrari setti:

Á. Helgason.